{Þeirra íslendsku evangelisku Smárita Nr. 56, a.}

Sú rétta

# Sálar-Lækning

„Heilir þurfa ecki læknarans, heldur þeir sem sjúkir eru," sagdi Jesús fordum. Þetta meinti hann til syndugra manna, sem allir eru, af syndanna sýki, svo gagntekmir, ad allt hjartad er sjúkt, allt höfudid er veikt, svo frá hvirfli og allt til ylja, er eckert nema sár, kaun, benjar og þroti, seigir ritningin. Og þar er ecki ein einasta sál, af öllum Adams nidjum, sem ecki sé þessari drepsótt undirlögd; hvör efalaust steypir öllum þeim í fár eilífs dauda, sem ecki fá í tíma lækningu vid henni. En hvör er þá lækning þessi? hvar er hana ad fá? og hvörnig verdur hún réttiliga brúkud? Þar til svarast: 1) Lækningin vid syndanna sýki, er eingin önnur enn Jesús Christur, hans dýrmæta forþénusta og fridþægjandi pína og daudi, mannanna vegna. Þennann læknisdóm gaf Gud syndugu mannkyni óbedinn, af sinni einskjærri náð og miskunsemi. Lofadur og blessadur veri hann fyrir þad ad eilífu! 2) Þennann læknisdóm er hvörgi annarstadar ad fá og finna, enn í heil. ritningu, sem inniheldur evangelíum út af Jesú, hvörsvegna hún má vera oss ein yfirmáta kjær og dýrmæt bók, þar hún, sem ein andlig Guds hyrdsla, í sér geymir þá einustu lífslækningu fyrir sálir vorar. 3) En skuli nú lækning þessi oss ad notum koma, þá hljótum vér fyrst: a) ad finna

til sjúkdóms vors, med sárri samvitskunnar tilkénn-
íngu, ángri og trega fyrir Guds augliti, því annars
gétur oss ecki alvarliga eptir lækníngunni lángad. Þar
nærst: b) þurfum vér ad brúka lykil heitrar og ydug-
ligrar bænar, til ad uppljúka hyrdslu þeirri, í hvorri
ad læknisdómurinn vid synda sýki vorri geymdur er;
því annars verdur lestur ritníngarinnar, og annara
út af henni réttiliga dreiginna andligra bóka, oss ad
eingum notum fyrir sálir vorar; c) í þridja lagi skulum
vér, med hønd lifandi trúar taka til vor læknisdóm-
inn, sem þar inni er; það er: vér skulum, midt í ydrun
vorri og bæn, trúa því og treysta efalaust, ad Gud,
eptir sínum fyrirheitum, vilji oss, vegna Jesú forþén-
ustu, syndirnar fyrirgéfa. Þegar vér nú þetta gjørum,
tekur Jesú blódskraptur ad verka svoddan umbreyt-
íngu, til heilsubótar, í sálu vorri, ad syndarinnar
sýki gétur oss ecki framar ad andligum bana ordid.
Þó af því ad syndarinnar eitur útþreinsast aldrei til
fulls úr sálu vorri, í þessu lifi, vid brúkun þessa læknis-
dóms, þá verdum vér, mikid ydugliga, med sømu ad-
ferd sem í fyrstu, ad brúka hann, til ad vidhalda
heilsu sálar vorrar. Því ef vér gjørum það ecki, né
fordumst syndina, sem vér best gétum, er vid því búid,
ad sjúkdómur vor taki sig upp aptur, og verdi kannské
verri vidureignar, enn hann í fyrstu var. Þessvegna
hefur líflæknir sálna vorra Jesús Christur rádlagt oss
alvarliga, ad vaka og bidja, svo synda freistíng-
anna eitur grípi oss ecki aptur ad nýu. En kénni-
teiknin til þess, ad brúkun þessa læknisdóms hafi reg-
lulig verid, og oss til andligra nota verkad, eru yfir-
høfud innifalinn í gudligu líferni, sem vér tøkum þá
þeckjanliga ad ydka, framar enn ádur.

Hvørt ed audsýnir sig serdeilis: 1) í umflýngu alls óguðligs athæfis, til orda og verka, eins heimugliga sem opinberliga; já, og jafnvel í því ad fordast allt tækifæri og tilefni til syndarinnar, og í því ad strida á móti vorum kjærustu gyrndum og tilhneigingum; 2) í ástundun og æfingu allra moguligra góðverka, einkum í því ad verka til þess, med allri kostgjæfni, ad sem flestir mættu, ásamt oss, fyrir sanngjorda ydrun og lifandi trú, frá syndanna sýki frelsadir verda. En af því svo mikid ridur á því, ad vér ei drogum sjálfa oss á tálar, med falskri innbirlingu um velferd sálar vorrar, þá er oss naudsýnligt ad ransaka oss dagliga, og gjæta grandt ad, hvørnig hennar andliga heilsufari varid sé, og forsómunarlaust ad brúka þaug medøl, sem því vidhalda og þad styrkja; nefniliga.

1) Vøkuna (eins og ádur er sagt), edur vareygdina, móti syndanna tillockandi freistingum.

2) Bænina til Guds ydugliga og hjartanliga, til ad øðlast kraft hans anda, oss til adstodar, til ad framhalda vareygd þessari.

3) Guds ords kostgjæfiliga heyrn og yfirvegan bædi í kyrkjunni og heima hjá oss, til ad uppvekja þar med hjarta vort, til sannarligrar vøku og bænar.

4) Jesú heil. holds og blóds sacrament, í hvørju vér á stakligann hátt inntøkum þennann ædsta og einasta læknisdóm, móti syndanna banvæna sjúkdómi. Med þessu móti, sem sagt er, fáum vér haldid heilsu sálar vorrar allt til daudans, eptir sem unnt er í þessu hættuliga sjúkdómshúsi veraldarinnar; og munum svo loksins, fyrir sáluhjálpligann dauda, frá øllum þessa sjúkdóms meinsum, ad øllu leiti frelsadir verda, og

fullkomnustu sálar heilsu, á lifendra landi, eilífliga úr bitum bera. Gud veiti oss þad í Jesú Christi nafni. Amen!

Jesú Christe læknir lída,
sem lénar veikum þína náð,
sálar minnar sjúkdóm stríða
sefa þú, en géf mér dáð
ad hlýða reglum helgum þín,
svo heilsu fái sálin mín,
þveiginn hér í þínu blódi;
þá er eg hólpinn, Jesú gódi!

Af náttúru er eg allur
eitur synda fullur med;
sálar mundi hagur hallur,
hefdir þú ei til min sied
og lagt svo hønd á lemstur mín
laugad sál í dreyra þín,
þíns réttlætis skrýdt med skrúda
skjærum, ønd af syndum lúda.

Veit þú mér ad vaka og bidja,
veit þú mér ad stríða rétt,
svo min stødug æ sé ydja
ad efla gott í minni stjett;
lát þinn anda leida mig
á lífsins vísa gøtu stig;
svo eg gégnum daudans dalinn
dýrdar komist inní salinn!